{Þess íslendska evangeliska
Smábóka Félags rit No. 52.}

# Frásaga

framsett

## í Sendibréf frá einum verdugum Skólaforstodumanni í Þýdskalandi; um umvendun brodur síns, sem var Prestur.

Utlögd úr Þýdsku.

---

Ástkjæri Herra!

Med ánægju vil eg hér meddeila ydur frásögu þá, sem þér æskt hafid, um umvendun og sáluhjálplig æfilok brodur míns, sem fyrir nockru dáinn er, med svo fáum einfoldum og sonnum ordum, sem eg best gét.

Allt er gott þegar endirinn er gódur, er meiníngin í ordum Salómons, þegar hann segir: ad endirinn sé þad besta hvors hlutar. Já, eg segi med honum þad sama. Og, eylífar þackir séu nád vors mildirika Guds, ad eg med fullkomnasta sannleika, og í þeirri dýrmætustu meiníngu, gét heimfært þaug til fylgjandi sogu!

Minn sálugi bródir hafdi — eg má nærri svo segja — allt í frá módurlífi haft gott mannord á sér, og verid eptir réttlætinu í logmálinu (útvortis) óstraffanligur. Sem skólapilltur og sídan sem Stúdent vid háskólann vard hann ofmettadur af hrósi og afhaldi sinna kénnifedra og yfirmanna, sem settu hann hans skólabrædrum fyrir sjónir, sem munstur kostgjæfnis og rádsettrar hegdunar. Þetta verkadi þad ad vísu, ad sumir høfdu ógéd á honum og ofund; en opinberliga naut hann þó smjadurfyllstu vyrdíngar í ollum stadnum.

Hann sjálfur fann og til síns ímíndada verdugleika, svo álit hans og gédþekni á sínu eigin réttlæti vóx hjá honum í sama mælir, sem árafjoldinn. Á háskólanum lagdi hann sig eptir Gudfrædi; en Gudfrædi sú, sem hann heyrdi og lærdi, var eingan veginn sannkristilig. Ekkert nam hann þeirrar Gudfrædi, sem setur Jesúm fyrir sjónir sem Gud og mann, hver ed géfinn hafi verid oss af Gudi, ekki ad eins til dygdakénnara, heldur og til medalgángara milli Guds og syndugs mannkyns; já til syndaoffurs og fridþægjara, og til ad vera sá einasti vegur, sannleikur og uppspretta eylífs lífs. Hann valdi og af ásettu ad gánga á þá heyrnarsali, frá hverjum í útlegd rekid var allt hvad keim hafdi af þeim gamla trúarlærdómi; því

kénningin út af krossinum var honum allareidu ordin ad heimsku og hneigsli.

Honum fannst hann vera ofdygdugur til ad þurfa syndafridþægjara vid, og ofréttlátur fyrir Gudi og mönnum til ad hafa þörf á annarligu réttlæti, hér edur hinumegin grafarinnar.

Hann skildi sídan vid háskólann, sem fullkominn og vidurkéndur fríþeinkjari; og þad hid sama í versta skilníngi; því sjálf trúin um Gud, ad hann tilværi, og skipti sér nockud af mönnunum á jordunni, var hjá honum varla meira enn veiklig gétgáta. Hann sagdi vinum sínum dylgjulaust, ad hann varla framar trydi enn ecki trydi tilveru Guds; heldur findist sér hún, eptir allar þær rokksemdir, sem hann allt þángad til heyrt hefdi, vera enn nú ósönnud. Sidfrædi og dygd, sagdi hann, ad heingi alls eckert af trúnni á Gud, heldur sé þvílíkt einskonar logmál, sem naudsynliga hángi af veru vors anda, og sé honum óadgreinanliga innrætt. Þessvegna sé og sidalærdómur Epictets, Platóns og annara viturra manna, lángt samkvæmari mannligri náttúru, enn Christs sidalærdómur. Med þessu sinnisfari — sem hann lét þó ei vid mjög marga í ljósi — gaf hann sig til ad verda barnakénnari, og, eptir nockur ár, virkiligur prestur og prédikari.

Þegar hann var Stúdent ordinn, var einum Baróni rádlagt, ad fá hann til ad uppmenta tvo sonu sína. Med klókri forsjálni duldi hann, um fyrstu vikur síns embættis tíma, trúargrundvöll sinn; jafnvel þó honum væri þad mjøg ógédfeldt, ad þurfa ad uppmenta lærisveina sína, eptir Bibliúnnar leidarvísir, edur kristiligra trúarbragda ástædum. En húsbóndi hans létti á gédi hans vandrædum þessum. Eptir þad hann verid hafdi um 14 daga í þessu embætti, géck húsbóndinn eittsinn inn til hans í herbergid, þegar hann var ad uppfræda sonu hans. Í nærveru barnanna taladi hann þá svoleidis til hans: „lángt er frá því, kjæri herra! ad eg vilji fyrirskrifa ydur løg edur máta uppfrædíngar ydar. En þad segi eg ydur bert út, ad eg óska ølldúngis ecki, ad úr bornum mínum séu mindadar svokalladar gudhræddar edur hjátrúarfullar mannesskjur; heldur skynsamar, frjálsþeinkjandi og sjálfum sér rádandi. Gud, dygd og ódaudligleiki, þad er sem eg held fyrir trúarbrøgd; en allt annad verda þeinkjandi menn ad álíta sem hégiljur og hleypidóma. Utlistid þér fyrir bornum mínum þessar ímindanir, og stimplid þær í sálir þeirra; þá hafid þér uppfyllt ydar skyldu, og eg er ánægdur." Hægt er ad skilja, hvørsu þetta óvænta tal og meiníng Barónsins gédjast hafi hans barnafrædara. Sýnilig gledi útbreiddi sig yfir allt hans yfirbragd; og hann vidurkéndi fyrir húsfød-

urnum dylgjulaust: „ad allt þetta hans af hjartans grunni framsetta tal, samstemdi ad ollu leiti sinni sannfæríngu. Hann lofadi því trúliga ad uppfylla sína uppáteknu skyldu, ad gjora sonu hans ad þeinkjandi og dygdugum manneskjum, án þess ad fylla heila þeirra med gamallri edur nýrri Júda hjátrú, og hjortu þeirra med fánýtum gudhrædslu hégiljum." Hann héldt og ord sín; og obladist fljótt þá ánægju, ad sjá og heyra báda sína lærisveina draga gis og spott ad ollu því, sem einum sannkristnum manni æruverdast er. Eptir 4 ár libin, þegar hann nád hafdi þeim logbodna aldri til ad verda Prestur, var hann kalladur til ad vera prédikari í einum litlum landstad. Hann tók ámóti kallinu, þó sídur af elsku til saudanna, enn af girnd til ullarinnar. Tólf ára tíma hafdi hann þetta prédikunar embætti á hendi. En, hvornig? og med hvílíkri verkun? því meiga allir nærri géta. Kénníngarmáti hans var yfirburda audskilinn og tillockandi. Hofudefni hans prédikana var náttúran, dygdin, og þeir hlutir sem heyra til almennra útvortis nytsemda. Undir dygda nafni skildi hann fráhald frá lostum, og því ad gjora náúnganum skada. Af misskilinni frjálsrædis-elsku lifdi hann ókvongadur, og brúkadi þann mesta part inntekta sinna til ad oblast heimspekiligar bækur. Þó gjordi hann ogsvo fátækum og foburleysíngum gott; med hvorju hann bædi ávann og vid-

hildt elsku sins sóknarfólks; með því og líka prédik-
unarmáti hans gédjadist vel þeim mesta fjölda þess.
Svoleiðis framleiddi hann nú embætti sitt, til þess
síðarsta hálfa misseris lífstunda sinna; hvorjar hann
endaði, þegar hann var á! sínu 37da æfiári. En
þetta síðarsta hálfa misseri var óendanliga meira verdt
og blessunarfullt bæði fyrir sjálfan hann, og, að öll-
um líkindum, hans eptirskilda sofnuð, helðurenn öll
hans undanfarin lífsár, tilsamans tekin. En tildrátt-
urinn til þess var svoleiðis:

Einn dag, þegar hann framkvæmt hafði skírn
borgara-barns nockurs í sókn sinni, var hann, ásamt
ödrum af skírnar-samkvæminu, boðinn til veitslu í hús
þessa borgara. Andspænis rétt á móts við hann í
húsinu hángdi, þar á veggnum, mynd Krists á kross-
inum, með þessari undirskrift: „Þetta gjöri eg
fyrir þig, hvað gjörir þú fyrir mig?" Mynd-
in dró augu hans til sín; og þegar hann las undir-
skriftina, þreyngdi sér ígégnum hann einslags ósjálfráð,
óforvarandis og hrífandi tilfinníng, sem hann aldrei
áður um sína lífstíð reynt hafði. Tár brutust með
makt, og honum nauðugt, af augum hans. Eptir
það var hann í samkvæminu mjög fátalaður, og skildi
sig við það svo fljótt, sem honum var moguligt. Á
heimveginum til sín aptur, heyrði hann í sínum

innra manni óaflátanliga ítrekaða þá áðurfogðu undirskrift. En Guðs náð hindraði allar heimspekinnar efasemdir og útþýðíngar frá að géta náð inngaungu í sálu hans. Hann gat eckert annað enn látið undan og géfið rúm þessum ómótstæðiligu tilfinníngum í sálu sinni. Um nóttina eptir, stóð honum sífeldliga, í draumi, þessi spurníng fyrir hugskots sjónum: „hvað gjörir þú fyrir mig? Hann vaknaði um morguninn með grátþrútnum augum, og fann hjá sér óyfirvinnanliga drift til að heimsækja einn þar í nágrenni búandi gamlan og guðhræddan prest, hvern hann allt þángað til, sem vesælan píetista, magnliga forsmáð hafði. Hann fór ogsvo sama dag á hans fund. Sá frómi gamli maður tók honum í kjærleika, og bað hann að vera til miðdagsverðar hjá sér; hvað hinn og þáði. Með einslags heimugliga róligum fögnuði, merkti sá gamli prestur eina umbreytíngu hjá gésti sínum, hvors ýmugust til sín — svo sem þess er uppmentaður verið hefði á þeim Hallisk-Frankiska skóla — hann áður gjörþeckti. Sá aðkomni talaði eckí mikið, en sýndi sig yfirmáta hógværan og vingjarnligan; en sá gamli prestur fann sig þar á móti innvortis sterkliga knúðan, til brennandi bænar til Guðs, um umvendun þessa vantrúaða og ótryggva þjóns. Eptir það þeir druckið hofðu kaffe, las sá gamli prestur hinum úr sinni saungbók þá tvo dýr-

mætu sálma, er svo byrja: „eitt er naudsýn; já eitt er þad;“ og: „ó Jesú Christ mitt líssins ljós!“ Vid þad vers í fyrra sálminum: „hvad skal eg girnast hyrda meir“: streymdu heit tár af augum þess ýngra prests. En þegar ad þessu versi kom: „Frelsari minn, þig elska eg!“ greip hann svo voldug innvortis tilfinníng, ad hann féll í ómegi, og hofud hans hneig nidur á bordid, án hans vitundar. Sá æruverdi gamli Prestur merkti þad; stód því strags upp úr stól sínum, og féll á kné. Sídan gjordi hann brennandi bæn, med hárri raustu, fyrir sálu síns embættis-bródurs, sem hann ímindadi sér full væri af sterku ángri og audmýkt. Eptir endada bænagjord, géck hann til hans, fadmadi hann og vildi kyssa á hond honum. Hinn sagdi þá med sárstynjandi roddu: æ minn Gud! hvornig gétid þér nefnt mig ydar bródur? Hvor erud þér? og — hvor er eg? Þér erud, kjæri Hra bródir! ansadi sá gamli, þad sama, sem eg er; og eg er í mér sjálfum þad sama, sem þér. Þad sem ockur skilur, er miskun sú, sem mér audsýnd er, þar Gudi hefur þóknast ad opinbera fyrir mér sinn Son. Megi eg, sem einn gamall reyndur madur, géfa ydur eitt áminníngar ord, þá er þad ad eins sú bón: „takid þér nú ecki hendina aptur af plógnum, heldur haldid áfram, án þess ad rádfæra ydur vid hold og blód, edur vid skynsemi og

heimspeki!" Eptir kærleiksfullan adskilnad sneri nú minn brôdir til baka, til síns stadar og heimilis. Hann eyddi nú þeirri heilu viku med umþeinkíngu, daglig-um Biblíulestri, óaflátanligri bæn um upplýsíngu og sannfæríngu til sannleikans; og bæn hans vard ecki af Drottni forsmád. Næsta sunnudag þar eptir af-lagdi hann í prédikun sinni opinberliga þá vidur-kénníngu, ad hann, allt þángad til, hefdi ecki vísad sínum tilheyrendum þann rétta veg til eylífs lífs. Þessi eini sanni vegur — þessi vegur sannrar ydr-unar og trúar á Jesúm Christ, sem Frelsara syndar-anna — hann sé sér nú sjálfum fyrst opinberadur fyrir Gudsnád; og hann viti nú og vidurkénni hátt hátídliga: ad allt vort egid réttlæti sé sem saurugt klædi, og vor sáluhjálp einskjær gáfa þeirrar fríu Guds nádar í Jesú Christó, sem fyrir oss og í vorn stad hafi géfid sig til einnar fórnar; svo vér fyrir hans sakir ydum hér á jördu heilagir og réttlátir, en eptir daudan eylífliga sáluhólpnir. Sjálf prédikunin, sem var út af Evangelío um þær 10 jómfrúr, var yfir-máta hrærandi, og vakti hjá hans tilheyrendum, (sem óvanir vóru vid slíkar prédikanir) stakligan, og hjá sumum hardla blessunar-ríkan eptirþánka. Eptir þetta prédikadi hann 8 edur 9 sunnudaga í rod, í sama anda, og med sama kénníngarmáta.

En á mánudaginn, eptir þann síðarsta sunnudag, lagðist hann í stríðri koldusótt. Sjúkdómur hans varaði að eins í 3 vikur; því þann 21ta dag, eptir það hann lagðist, skildi hann við heiminn.

Rétt þann sama mánudag skrifaði hann mér til eitt hjartahrærandi bréf, í hverju hann sagði, meðal annars: „Alla heimsins speki og veraldar vísdóm, sem „ecki er uppausinn af brunni sannleikans, nefniliga „þeirri allra dýrmætustu bók heil. Ritníngu, hefi eg „uppfrá þessu og eylífliga sagt skilið við. Mín ein„asta lestrarbók er nú mín Biblía, hvar mér orðin er „ómetanliga kjær. En, minn bróðir! hvörsu er nú „allt í því blessaða Nýa Testamenti mér svo sem nýtt! „allt, einsog eg hefði bók þá, um mína lífdaga, aldrei „fyrri heyrt né séð! Og, allt — ó minn Guð! „hvörsu lærdómsríkt, huggunarfullt, andan upphefjandi „og sálina endurnærandi! Hvörsu er mér eitt og sér„hvört orð míns Jesú og hans postula uppspretta, „sem géfur mér ætíð þess gnæfara og sætara vatn, „sem eg optar og stöðugligar þar af dreck! og með „hvílíkum fögnuði og fullvissu gétur nú hjarta mitt „sagt já og Amen til eins og sérhvörs þess blessaða „orðs, sem af vörum míns Jesú framgeingið hefur!" Öll hans sjúkdómslega var hin fullkomnasta uppfyllíng þess orðskviðar Salómons, er eg í inngánginum til-

færdi. Hún var sú lærdómsríkasta, sú kristiligasta og sú blessunarfyllsta prédikun, sem minn bródir alla sína lífdaga haldid hafdi. Eg var, medan hans sjúkdómur yfirstód, allt af hjá honum og þjónadi honum, og hans æruverdugi nágranna prestur heimsókti hann mjøg opt; og vitjanir hans urdu honum til allra kostuligustu hressíngar og endurnæríngar. Þá fyrstu 14 daga, sem hann lá, taladi hann ekki mikid; en yfirbragd hans og augnarád sýndu, ad honum leid innvortis vel; jafnvel midt í þeim þýngstu verkjum og samvitsku ángursemdum, sem hann ósjaldan ástríddu. Á 7da degi fyrir hans dauda tók fyrst af munni hans ad útfljóta, þad sem hjarta hans var fullt af. Hér sýndi sig í skjærasta ljósi, hvørsu umvendan hans var hreinskilin, og hvørsu ad Guds Anda nád verkadi básamliga í hans sálu. Allt tal hans var í sífellu sumpart djúplæg ydran og blygdan fyrir Gudi; sumpart lofgjørd og addáun yfir þeim ómetanliga stóra kjærleika, þolinmædi og þyrmíngu síns eylífa miskunara.

Eittsinn hrópadi hann med hjartans upptendrun: „Drottinn minn og Gud minn! hvørnig gétur ein heil eylífd verid nógu laung, til ad útsegja og vegsama þína ógripanligu elsku til syndaranna! hafir þú, eylífi kærleiki! gjørt svo stóra hluti vid einn þvílíkan þinn foraktara og afneitara, sem eg hefi verid, hvad

muntú þá þeim gjora, sem þín snemma leitad hafa, og þér hafa trúliga áhángandi verid? Nú kém eg óverdug sképna, sem sá allra ótímabærasti burdur, þar þú med svo stórum kjærleika hefir mig til þín kallad. Pad, ad þú hefir mig til nádar tekid, mun loksins, medal sigurvegaranna fyrir þínum tróni, verda háleitt lofgjordar efni, þér til handa, og einhvor hin stærsta rokkemd þinnar alltmegnandi nádar."

I eitt annad sinn hafdi hann þessi ord: „hvorsu dýrmætt þykir mér nú eitt og sérhvort ord, minnar frómu sálugu módur, ad hvorju eg þó fyrrum gjordi gis, í hjarta mínu! Pad er sannarliga víst, ad hún fyrir Guds tróni hefir ei hætt ad bidja um nád fyrir þennan sinn vesæla blinda son; og sá eylífliga nádarríki Frelsari hefir líka heyrt bænir hennar. O hvad furdanliga dásamlig er miskun Guds!" „Vel sé þér" — sagdi hann þá til mín — „vel sé þér, þú minn lukkuligi bródir! ad þú, fyrri heldur enn eg, hefir leitad Drottins, og hann hefir líka látid sig af þér fundinn verda! Og, þó eg nú komi loksins, kém eg þó óverdugri enn sjálfur ræníngin á krossinum; já eg kém rétt einsog einn þurr eldibrandur, frelsadur út úr bálinu." A þridja degi fyrir sína burtfor, lá hann um kvoldid, heila klukku-stund, í andaktarfullri kyrd, og hafdi til skiptis ýmist gladvært edur ángur-

bitid yfirbragd. Lokſins opnadi hann augu ſín, og ítrekadi nockrum ſinnum þeſsi ord: „Þetta gjördir þú fyrir mig!"

Eptir fjórdúng ſtundar lidinn las hann mér fyrir eitt kvedjandi ſkilnadar-bréf, til ſíns ſafnadar. Þetta ávarp var fullt poſtulligs trúar-anda; fullt vidkvæmuſtu þacklætisfylſtu elſku til Jeſú ſíns Frelſara, og fullt ſárheitrar ydrunar fyrir fjandſkap þann er hann hefdi hønum ádur ſýndan í prédikunum ſínum, ſem verid hefdu ſvo ſkadligar ſálum ſinna tilheyrenda. Lokſins endadi hann ávarp þetta med einni áminníngu og bæn, ſem full var af heitum eldi og ſmurníngu. Sú þá nærſtkomandi nótt var hin þýngſta allra í hans banalegu; þó ſídur vegna þeirra allbæriligu lídana líkama hans, enn vegna þeſs ſem hann reyndi á ſálu ſinni. Óvini hans ſálarvelferdar var þá leyſt ad ſikta hann, og ad reyna til, ef hann gjæti, ad ſnúa hønum frá þeirri braut, ſem hann allareidu var ákominn. Þeſsi kvalatími vardi þángad til um morguninn kl. 3. Allt í einu dró þá hrygdarſvipinn af hans andliti. Hann hrópadi þá med ſigrihróſandi røddu; „Halelúja! kjærleiki míns miſkunara hefur nú ſigurinn unnid! Lambid — ſem mín vegna ſlátrad er — er verdugt ad medtaka prís og þacklæti, heidrun og tilbeidſlu! Þeim ſídarſta deigi lífſtunda ſinna eyddi hann nú aptur

med rósemi og sálarumgeingni, med sínum volduga Frelsara. Nú hrópadi hann nockrum sinnum upp sín ádur áminstu minnisfostu dyrmætu ord: þetta gjørdir þú fyrir mig!" Undir midnætti tók hann í mína og þess þá nærveranda gamla prests hendur, þrykti þeim fast ad brjósti sínu, og vildi kyssa þær. Þá hrópadi hann aptur, med veikri roddu: „Halelúja! sé Lambinu, sem fyrir mig slátrad var!" Þegar vid nú merktum ad augu hans tóku ad bresta, súngum vid bádir hjá honum eitt andláts vers; og þegar vid hofdum endad þad, sáum vid, ad hann med ró og hægd var burtsofnadur.

Svoleidis skédi þá afgángur eins sonar frómra og trúadra foreldra; hvored svo sem barn hafdi af þeim, í aga og umvondun til Drottins, uppalinn verid; en hafdi — eptir þad hann vard skólapilltur og sídan Stúdent — yfirgéfid og affvarid liffins uppsprettu; hvored fyrir heiminum lifad hafdi hrósverdu og ólastanligu líferni; en vid endalok síns dygdafulla lífs lærdi fyrst, fyrir Guds náð, ad þeckja sína fátækt, eymd, blindni og nakleika, og tók þá til ad meta allan sinn vísdóm og dygd fyrir skada og skarn, hjá þeirri yfirgnæfanligu vidurkénníngu Jesú Christs vors Herra; og sem þá med heitri elsku aptur á mót umfadmadi þann syndaranna Frelsara, hvorn hann ádur, med

því bitrasta hatri, forsmád og honum afneitad hafdi. O þú kjærleiki! ó þú eylífi kjærleiki! hvor kann ad mæla þig og meta? Vér kunnum ad eins ad tilbidja þig; og ad tilbidja þig, en ei annad, kunna ei heldur hefud-englarnir og þeir réttlátu fyrir þínum tróni.

Kaupmannahøfn 1834.
Prentad hjá S. L. Møller.